# Lettneska

**Lettneska** (*Latviešu*) er indóevrópskt tungumál talað í Lettlandi. Hún er rituð með afbrigði af latneska stafrófinu, sem einkennist af flötum strikum ofan við -e, -a, og -u en ekki -o, og setillum neðan við -k, -l og -n. Engir tvípunktar eða skástrik eru sett fyrir ofan sérhljóða. Š táknar -sj og C -ts.

Föll nafnorða eru sex í lettnesku en að vísu ber heimildum ekki fyllilega saman um hvort föllin eru 6 eða 7 en fleiri heimildir nefna 6. Tvö málfræðileg kyn er að finna, karlkyn og kvenkyn. Hvorki tiltekinn né ótiltekinn greini er að finna. Lýsingarorð beygjast í tölum, föllum og kynjum og geta þar fyrir utan tekið tiltekni-endingar. Líkt og í litháísku eru elstu textar frá 16 öld.

Auk litháísku og lettnesku telst hin útdauða fornprússneska til baltneskra mála.

| Lettneska<br>***Latviešu*** | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Lettland |
| **Fjöldi málhafa** | 2,2 milljónir |
| **Sæti** | ekki með efstu 100 |
| **Opinber staða** | |
| **Opinbert tungumál** | Lettland |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | `lv` |
| **ISO 639-2** | `lav` |
| **SIL** | `lav` |

**ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode.




Lettneska í Lettlandi

*Þessi tungumálagrein er stubbur. Þú getur hjálpað til með því að bæta við greinina (https://is.wikipedia.org/w/index.php?title=Lettneska&veaction=edit).*